# ÚTFARARMINNING

# JÓNS THORSTENSEN,

Landlæknis Íslands, Jústizráðs og Doctors

í heimspeki

d. 15. dag febrúarm. 1855.

---

Gefin út á kostnað ekkjunnar.

---

KAUPMANNAHÖFN.

Prentuð í prentsmiðju Berlinga

af N. H. Stenderup.

1856.

Jón Þorsteinsson (Thorstensen), landlæknir á Íslandi, var fæddur 7. Júní 1794. Faðir hans var Þorsteinn Steinþórsson, Stephánssonar, bóndi í Húnavatns sýslu; móðir hans hjet Margrjet Jónsdóttir. Í barnæsku ólst hann upp hjá foreldrum sínum við fátæk efni, og þegar hann fór að vaxa upp var hann hafður við alla venjulega sveitavinnu. Þegar hann komst á legg, fór að vakna hjá honum löngun til að læra, en tilsögn var litla að fá; þó náði hann í latínska grammatík og lærði hana þegar hann sat yfir fje föður síns. Síðan komst hann í Bessastaða skóla, og var útskrifaður þaðan 1815. Sama haust fór hann til Kaupmannahafnar og var innskrifaður til háskólans 19. Oktbr. 1815. Þar eptir las hann læknisfræði, og gekk undir embættispróf 2. Júlí 1819, fjekk hann þar bezta vitnisburð með samhljóða atkvæðum (L a u d a b i l i s u n a n i m i c o n s e n s u). Síðan þjónaði hann um

hríð á Friðriks spítala í Kaupmannahöfn, eins og venja er læknaefna, þangað til um vorið eptir, að hann fór til Íslands, því um veturinn á jólaföstu var honum veitt landlæknis embættið á Íslandi ásamt með hjeraðslæknis-embættinu í Borgarfjarðar, Kjósar og Gullbringu sýslu (konungs úrsk. 11. Decbr. 1819; veitingarbrjef 17. Decbr. s. á.).

Þegar hann kom til Íslands bjó hann fyrst í Nesi við Seltjörn, þangað til leyft var með konungsúrskurði 13. Marz 1833 að landlæknir og lyfsali mætti fara til Reykjavíkur; byggði hann sjer þá hús í Reykjavík og bjó þar síðan.

Meðan hann var landlæknir leitaðist hann við að bæta kennslu yfirsetukvenna á Íslandi og hag þeirra. Þrysvar kom hann fram með uppástungur þar að lútandi: 1823, 1832 og 1846, en í hvert sinn varð þetta mál útideyða á ferðunum fram og aptur milli stjórnarráðanna og valdstjórnarmannanna, svo hans góði tilgangur og viðleitni bar minni ávöxt enn vænta mátti. Á fyrri árum sínum hjelt hann einnig því fram að búa til almennt sjúkrahús eða spítala í Reykjavík. Hann leitaðist þannig við að koma fram endurbótum á læknaskipuninni á Íslandi, þó því máli yrði lítt ágengt um hans daga. Í læknisstörfum sínum var hann óþreytandi, og hugsaði aldrei um, hvort hann fengi

launað ómak sitt og erviði, eða ekki. Hann kenndi á fyrri árum sínum ungum mönnum lækningar, og lærðu þeir hjá honum sjera Bjarni Eggertsson í Garpsdal, hinn núverandi landlæknir Dr. Jón Hjaltalín, og fl. Til þess að leiðbeina þeim, sem ekki ná til lækna, ritaði hann og ljet prenta bæði í íslenzkum tímaritum og sjer í lagi ýmsa smáritlinga. Til Danmerkur og annara landa sendi hann einnig ritgjörðir um ýms atriði, sem komu fyrir í lækningastörfum hans á Íslandi. Fjekk hann af þessu mikið álit meðal lærðra manna í öðrum löndum. Fyrir hið konunglega danska vísindafjelag hafði hann þann starfa frá því 1823 eða fyrri, að rita veðurbók, og sendi hann fjelaginu hana árlega. Stutt ágrip úr henni um veðráttufarið í Reykjavík 1849-1850 er prentað í „Lanztíðindunum."

Konungur sæmdi hann Júslizráðs nafnbót 19. Marz 1842. Árið eptir, 23. Septembr., kaus konungur hann til varaþingmanns af veraldlegu stjettinni til alþingis, og mætti hann á þingunum 1847 og 1849. Síðan var hann kosinn til alþingismanns í Reykjavík 1852, og mætti sem fulltrúi bæjarins á alþingi 1853.

Margir ferðamenn útlendir, þeir er til Íslands komu, höfðu miklar mætur á honum. Til merkis

um það fjekk hann í heiðurs skyni Doctors nafnbót í heimspeki við háskólann í Marburg á Þýzkalandi 28. Marz 1847.

Hann var í mörgum fjelögum, bæði innanlands og utan. Hið fyrsta fjelag sem hann gekk í var hið íslenzka bókmenntafjelag; var hann með að stofna það sem ungur stúdent, 30. Marz 1816, og var síðan ávallt fjelagsmaður þess; frá 1822 var hann varaskrifari í deildinni á Íslandi, þangað til 1848, og 1848-1849 varafjehirðir; 24. Febrúar 1845 varð hann heiðursfjelagi. — Hann var og einn af þeim ellefu, sem stofnuðu Suðuramtsins húss og bústjórnarfjelag 28. Janúar 1837 — Í Danmörku var hann brjefafjelagi hins konunglega læknafjelags (medicinske Selskab). — Á Englandi varð hann heiðursfjelagi í Jennerian Society 23. Apríl 1831; það fjelag er stofnað í minningu Jenners, sem fann kúabóluna. Á Frakklandi var hann brjefafjelagi læknafjelagsins (sosiétè de la médécine), og 1841 heiðursforseti í hinu franska þjóða fjelagi til bjargar skipbrotsmönnum (la sociétè générale des naufrages et de l'union des nations).

Helztu ritgjörðir hans eru þessar:

Um cholera landfarsótt. Viðeyjar kl. 1831. 15 blss. 8vo.

Stutt og einföld ávísan um meðhöndlan Qvef- landfarsóttar. Viðeyjar kl. 1834. 16 blss. 8vo.

Collectanea meteorologica sub auspiciis Societatis regiæ scientiarum Danicæ edita Fasc. II. Observationes Thorstensenii a 1. Januar. 1823 ad 1. Aug. 1837 in Islandia institutæ. Hafn. 1839. 4to. (sbr. Berlin. Jahrbücher für wissensch. Krit. 1840. I. 852).

Fáeinar athugasemdir um kúabólusetníngu og bólusótt. Viðeyjar kl. 1840. 15 blss. 8vo.

Hugvekja um meðferð á úngbörnum. Rvík 1846. 115 blss. 8vo. Prentuð aptur með formála (29. Nóvbr. 1845) í ritum Suðuramtsins húss og bústjórnarfjelags II. B. 1. D. blss. 1—115 (sbr. III-VII).

Um skaðsemi áfengra drykkja. Rvík 1847.

Stuttur leiðarvísir um hvernig skuli fara með meslíngasótt. 1849. 6 blss. 8vo.

Leiðarvísir, sem segir fyrir um meðferð á austurlanda kólerusótt. 1849. 6 blss. 4to.

Um kóleru. Rvík 1853. 1 bl. í 4to.

Þetta vitum vjer til vera eptir hann í ritsöfnum, svo að helzt sje markvert:

Um veðráttufar og loptslag á Íslandi á dönsku

í yfirliti yfir störf hins konunglega danska vísindafjelags 1824—1827 og 1845.

Í „Bibliothek for Læger“: Um holdsveiki. 1830 (XIII, 91—106), síðan á þýzku í nokkrum þýzkum tímaritum; — Um heimula. 1830 (XIII, 231-33) og þar eptir í mörgum þýzkum tímaritum; — ágrip úr embættisskýrslum hans (XXVIII, 293-295); — Um ýmsar lækningar hans (XLII, 270-277).

Í „Klausturpósti“: Um heilnæmi mjólkur og mysu. 1821, bls. 177-180.

Í „Sunnanpósti“: Um fingramein. 1835, bls. 26-31; um beinbrot. 1835, Nr. 11-12; um barnabólu og kúabólu. 1836, Nr. 7.

Í „Lanztíðindum“: Um barnaveiki. 1. ár. bls. 8-12; um veðráttufar í Reykjavík. 1. ár. bls. 28 og víða seinna.

Í Schumachers Astronomische Nachrichten: Brjef frá J. Þ. til H. C. Örsteðs. I. B. Nr. 14, bls. 223-224.

Í Mémoires de l'Academie Royale de Médecine de Paris.

Tractatus de morbis in Islandia frequentissimis (um venjulegustu sjúkdóma á Íslandi; ritað í Janúar 1837). Tom. VIII. P. 2. bls. 28-

55. Paris 1840. Prentað einnig sjerstakt í Paris 1840. 8vo.

Athugagreinir hefur hann og samið við Lækningabók Jóns Pjeturssonar. Khöfn 1834. 8vo.

Rit hans eru talin í Callisens Medicin. Schriftsteller-Lexicon XIX, 228; XXXIII, 29; sbr. „Söndagen" 1838, Nr. 1; — sömuleiðis í Erslew's Forfatter-Lexicon III. B. bls. 368-370.

Kona hans var Elín Stephánsdóttir amtmanns Stephensens, frá Hvítárvöllum; þau giptust 21. Júní 1821, og áttu saman átta börn, þrjú dóu ung, en fimm lifa:

Ragnheiður, fædd 22. Nóvembr. 1826; gipt kammerráði Kristjáni Kristjánssyni, sýslumanni í Skagafjarðar sýslu;

Jónas, fæddur 9. Nóvembr. 1828, sýslumaður í Suðurmúla sýslu.

Stephán Þorvarður, fæddur 18. Janúar 1830, les læknisfræði við háskólann í Kaupmannahöfn.

Hans Theodor, fæddur 22. Septbr. 1831, les lögfræði við háskólann í Kaupmannahöfn.

Margrjet Guðrún, fædd 24. Maí 1833.

Landlæknir Dr. Jón Þorsteinsson andaðist 15. Febrúar 1855. Stutt æfiminning hans og skýrsla um útförina (6. Marz 1855) stendur í „Þjóðólfi" 1855. Nr. 11 og 12, bls. 41, og Nr. 13-14, bls. 55-56. — Sömuleiðis í Berl. Tid. í Khöfn. 1855. Nr. 73 og í Biblioth. for Læger, April 1855. 4. Række, 6. B., bls. 486-487.

Khöfn 28. Júní 1856.

J. S.

# Húskveðja yfir líki

# Dr. J. Thorstensen

eptir

biskup H. G. Thordersen.

---

Náð sje með yður og friður af guði vorum föður og hans syni, drottni vorum, Jesú Kristi! Amen.

Einlæg sorg, sár söknuður og innileg hluttekning hefur safnað oss hjer saman, svo margir sem vjer erum. Í mörgu gjörði guð manninn vegsamlegan, en þó ekki sízt í því, er hann gaf honum að gráta með grátendum, er hann innrætti hverri sálu að taka viðkvæman þátt í annara kjörum, ekki einungis í gleði þeirra, heldur einkum sorg.

En sorgin þarf að helgast af öðru æðra en náttúrunni; biðjum því guð að helga hana með oss í dag, svo hún geti orðið að þeirri hryggð, sem er eptir honum, og þannig fundið náð fyrir hans augum, sem rannsakar hjörtun og nýrun.

Hver er nú vor sorg? Þessi líkkista segir bezt frá því, því þó hinir lifandi tali margt og mikið, þá fær þó meir á oss ræða hinna dánu. Sjerhver líkkista, sem geymir æruverðar leifar einhvers heiðursmanns, stendur mjer fyrir sjónum litla hríð, en hún minnir mig þó betur en nokkur ræða á þessi orð heilags anda: Kenn þú mjer, lífsins og dauðans herra! að það hljóti enda að hafa um mig, að mínir lífdagar hafa takmark, og jeg hlýt frá að hverfa. Sjá þú, mínir dagar eru hjá þjer sem þverhandarbreidd, og mitt líf er svo sem ekki parið fyrir þjer — hversu öldungis ekkert eru þó allir menn, þeir er svo athugalausir lifa?

Já megum vjer ei játa, að vjer lifum athugalausir, sem svo sjaldan hugsum út í, að það einnig hljóti einn enda að hafa með oss, þótt vjer svo iðulega sjáum í kringum oss líkkistur, grafir og leiði framliðinna?

Þessar hugsanir vekur með oss sjerhver líkkista, en þó er næsta mikill munur á því, hvernig þær að öðru leyti hrífa á tilfinningu vora, og er þá sá mismunur undir því kominn, hver sá var, sem í hvert skipti er lagður til innan þeirra sorglegu náfjalanna.

Þegar jeg nú segi, að liðið lík vors elskaða landlæknis liggi í þessari kistu, þá er það með

einu orði sagt, sem í mesta máta vekur sorg og hluttekning allra viðstaddra, því hann hefur verið læknir vor á 36. ár, og jeg er viss um, að margir eru nálægir, sem með viðkvæmni og þakklátsemi minnast þess, hvað mikið þeir áttu honum, sem lækni, að þakka fyrir sig eður sína, þegar hann annaðhvort kom sjálfur, eður hann gaf þau ráð, sem fjölda manna urðu til heilsubóta, bæði fjær og nær, ekki einungis í umdæmi hans, heldur svo að segja um land allt, og er mjer þó minnst kunnugt um það. En — það er mjer kunnugt, og enginn má banna mjer að minnast á það, að sjúkur var jeg — og það allt til dauðans — en hann vitjaði mín í miklum fjarska, og að jeg næst guði átti honum líf mitt að þakka.

Eins og jeg þá, hafa margir aðrir verið í fjarska við hann, sem hann kom til, og með guðs náð bjargaði í hættulegustu tilfellum lífsins, svo að maki gat aptur faðmað að sjer maka sinn, og foreldrar börn sín. Hvort sem hann var kallaður á degi, eður upp úr rúmi sínu um næturstund, kom hann eins og á vængjum morgunroðans til að vitja sjúkra; hvernig sem veður var eða færð, hvort heldur á sjó eða landi, í björtu eða dimmu ljet hann aldrei bíða sín, heldur klauf hann alla erfiðleika og þrautir með því kappi og með þeim kjarki, sem

fáum mun gefinn, ef annars nokkrum öðrum. Þjer vitið, að hann jafnan hafði hjer í kringum sig svo mikið að annast, að hann gat ei lengi verið fjarlægur, en — þjer vitið máski ekki eins og jeg, hví líkur fögnuður fylgdi komu hans til fjarlægra staða, hvar hann venjulega kom fyr en nokkurn mann varði, sem optast með hjálpina í för með sjer, en ætíð með huggun, því guð hafði veitt honum þá lund, að hvar sem hann kom, og hvernig sem á stóð, örfaði hann hjá öðrum traust og hugprýði, eður deyfði sorgina með því, að leiða hugi manna að einhverju öðru, sem eptir kringumstæðunum var gott og nytsamlegt.

Svona var hann í fjarlægð — þjer, sem hann svo lengi hefur verið hjá, verðið að viðurkenna, að hann var hinn sami í nálægðinni, fljótur, ráðagóður, heppinn, umhyggjusamur og nákvæmur við sjerhvern veikan. Ó hvílíkur fjöldi meðal yðar mun sakna hans, þegar þjer hugleiðið, hversu opt hann vitjaði yðar, þegar þjer voruð sjúkir, læknaði yður eða yðar, eður þá hressti yður með þeirri hluttekning, sem var vottur hans góða hjarta? Hann var ætíð snar, þegar hans var vitjað, og hann hljóp þá ætíð með þeirri glöðu von, að hann mundi geta líknað hinum líðandi. Jeg get með sanni sagt, að eins og hinn þyrsta hjört í sumarhitanum langar í rennandi vatn, svo langaði hann til að geta svalað þeim,

sem sjúkur var, því hann gætti hvorki svefns nje matar, þegar því var að skipta, að bjarga þeim bróður, sem sjúkur lá. — Svo lengi sem hann var búinn að þjóna í embættinu, gat þó enginn sagt, að hann lettist eða dofnaði, hann var til dauðadags hinn sami, og mun það fáum öðrum hafa audnazt. Eins og hann dó í sinni kallan, svo lifði hann fyrir hana, ætíð vakandi og reiðubúinn, hvenær sem skyldan kallaði hann, og er með mörgu fleira til merkis um það, að aldrei kom hann svo heim til sín, að ei spyrði hann, hvort enginn hefði komið, meðan hann var burtu, að leita sín. Hans eini hvíldartími var á milli þess hans var vitjað, og vjer vitum allir, að sjaldan leið langt á milli. Aldrei sá jeg þenna glaðlynda mann hryggan, nema þegar einhver dó, eður reyndist ólæknandi, sem undir hans hendi var til lækninga, aldrei glaðari, en þegar honum heppnaðist tilraun sín. Ó! hvílíkur söknuður má þá víðs vegar, nær og fjær, vakna við fráfall þvílíks læknis!

Þegar jeg sleppi öllu tilliti til ófullkomlegleika mannlegrar náttúru, en bý mjer til hugmynd um fullkominn lækni, tek jeg einkum þessa eiginlegleika fram: að hann sje ágætlega vel að sjer í læknisfræðinni — að hann hafi hraustan líkama — að hann sje viljugur og fljótur til, hvenær sem hans

er vitjað — að hann sje jafnan glaðlyndur, samt einkum nákvæmur og hjartagóður. Vjer viljum fyrst athuga, hversu sjaldgæft það er, að svo margir og ágætir eiginlegleikar finnist sameinaðir hjá einum og sama manni, og þá vil jeg því næst spyrja: hvort þeir þó ekki allir fundust svo sameinaðir hjá þessum sálaða merkismanni, sem vjer getum búizt við, að framast muni geta átt sjer stað? Svo feginn sem jeg vildi, má jeg ei útlista þetta fremur við þetta tækifæri. — Svo mikið er víst, að þvílíkur maður verðskuldar mikinn söknuð, enda munu margir með þakklátsemi, elsku og virðingu lengi minnast hans, og — látum oss nú ekki heldur gleyma að hugsa út í þá minning, sem guð hefur auðsjáanlega sett honum, þegar hann kallaði hann til sín, mitt í hans kallan, án allra líkams þjáninga — þegar jeg heyrði, að hann var nýkominn frá veikum, lagði sig út af, og deyði í sömu stöðu, án þess hann hefði hreift hönd eður fót, duttu mjer þessi orð ritningarinnar í hug: Lofið hinum þreytta að hvílast. Í sannleika var sá þreyttur, sem guð hefur hjer lagt til hvíldar með sínum börnum; og af því hann var orðinn þreyttur og lúinn af því, með samvizkusemi og trúmennsku að gegna því verki, sem góður guð hafði falið honum á hendur, þá vildi sá himneski faðirinn, sem er dauðans herra,

eins og lífsins, ekki auka á þreytu hans með því, að láta hann heyja stríð við dauðann fyrir sjálfan sig, eptir að hann svo lengi og drengilega hafði barizt við hann fyrir aðra. Guð vildi ekki, að sá maður, sem í hans hendi hafði verið verkfæri til að lækna meinsemdir svo margra bræðra, og ljetta mörgum hið opt sára dauðastríð, skyldi sjálfur verða að reyna þau harmkvæli, sem svo opt ganga á undan dauðanum, af því þessi guðs trúlyndi þjón svo margsinnis um æfi sína var eins og búinn að deyja fyrir aðra, þar sem hann leið með sjúklingum sínum, og tók sjer þeirra mein ei síður nærri, en þó þau hefðu á honum sjálfum legið.

Vjer vegsömum þig faðir! að þú þannig lofaðir hinum þreytta að hvílast, að þú þannig sendir þinn engil, sem með blíðri hendi og mjúkri rödd svæfði þenna þinn þjón, til þess hann skyldi ei dauðann smakka að eilífu.

En svo mikill og verðskuldaður sem sá söknuður er, sem vjer berum eptir svo ágætan lækni, viljum vjer samt ei gleyma þeim miklu kostum, sem honum að öðru leyti voru gefnir. og gjöra hann í svo mörgu ógleymanlegan þeim, sem þekktu hann nokkuð nákvæmlega. — Hann var gáfumaður mikill, og einkar fróður um marga hluti, bæði að fornu og nýju, og studdi það mjög að þessu, að hann hafði eitthvert

hið mesta og trúasta minni, sem jeg hef þekkt hjá nokkrum manni.

Hann var einnig iðjumaður mikill, og alla sína æfi hinn mesti hófsmaður, og reglumaður um alla hluti. Hann var einhver hinn friðsamasti maður; aldrei átti hann í þrasi við nokkurn mann, og vissulega var sú hans viðleitni, hvar sem hann gat komið því við, að bæta úr missætti annara, án þess hann þó vildi skipta sjer af nokkru því, sem honum kom ei beinlínis sjálfum við, og hann ei var tilkvaddur. Hann var einstaklega jafnlyndur og glaðlyndur — ætíð, hvar sem hann kom eður sást, var hann ræðinn, glaður, skemmtilegur, opt spaugsamur, einkum meðal eldri kunningja sinna og vina. Þó nú megi með sanni segja, að hann lifði og dó sem lánsmaður, má samt nærri geta, að eitt eður annað ógeðfellt hafi orðið fyrir hann að koma, eins og aðra, einkum þegar árunum fer að fjölga og bæði menn og tímar taka til að breytast — en — ekkert fjekk nokkru sinni haggað hans blíðu og glöðu lund, hún fylgdi honum að hans síðasta hvílurúmi, hvar hann sofnaði og dó, og glaður er hann nú genginn inn í fögnuð síns herra. Jeg má um segja, að hann launaði aldrei íllt með illu — að hann átti hægt með að fyrirgefa, kannske flestum öðrum fremur — að margir aumingjar sakna hans gjöfulu

handar, hans ætíð opna og góðgjarna hjarta. — Hann hafði og næma tilfinning fyrir rjettlæti, og var því bæði í öllum loforðum og viðskiptum einhver hinn áreiðanlegasti maður.

Þó stutt sje nú yfirfarið, vildi jeg þó sæist — það sem guði er svo fyrir þakkandi, að allir nálægir vita áður — að hjer er eptir miklum manni að sjá, sem jafnan æfði sig í að hafa góða samvizku bæði fyrir guði og mönnum, sem mat það meir að vera en sýnast, sem einkis matti, að berast á fyrir heiminum, heldur stundaði það umfram allt, að geyma sinn innra mann óflekkaðan af heimi þessum — hann var maður algjörlega laus við alla fordild, tilhald eður prjál — hann mat það eina umfram allt, að gegna skyldu sinni — hann matti ei mikils dóma heimsins, en hann gætti þess stranglega, að sitt eigið hjarta fordæmdi sig ekki. Lof sje guði, sem honum hefur sigurinn gefið, fyrir drottinn vorn Jesúm Krist.

En þar sem vjer höfum svo margt og háleitt tilefni til að sakna þessa sálaða merkismanns, þá má hver og einn geta skilið, hvílíkur harmur og sorg þeim sje að hendi borin, sem honum stóðu næstir í lífinu, sem nutu svo lengi hans inndælu umgengni, hans trúföstu umhyggju, hans ætíð óbrigðulu ástar.

Jeg tek mjer nærri að ýfa upp þessa harma, en jeg má vita að þessi stund verður ekki frá oss tekin, að þeir nákomnustu, djúptbeygðu ástvinir hins sáluga verða að drekka út þann bikar, sem drottinn hefur þeim áskenktan; — þótt vjer aðrir með kristilegum kærleika og hluttekningu tökum einnig til vor þenna kaleik, þá verður þó hið beiskasta og súrasta eptir handa sártharmandi ekkju og börnum, sem hjer eiga að sjá á bak þeim manni, sem var hinn blíðasti og bezti ektamaki, umhyggjusamasti faðir, og sá húsfaðir, sem bar stöðuga umhyggju fyrir því, að þá, sem honum voru við hönd, skyldi ekkert skorta til farsællegs lífs.

Síðan þetta fráfall skeði, hefur sú sorgbitna ekkjufrú og dóttir hennar fundið nokkra svölun eður afþreyingu í því, að vita lík hins heittelskaða nálægt sjer, og að búa með ræktarsemi allt það undir, sem elskan getur upp hugsað til heiðarlegrar útfarar. En nú líður undir og að, að einnig þessi kista með hinum dýrmætustu leifunum verði hafin í burtu. Ó! sártharmandi elsulega systir! guð gefi þjer á þessari alvarlegu stund að geta fundið nokkurn ljetti í blíðum tárum, er þú hugsar út í ykkar löngu og gæfusömu sambúð, út í það, hversu hann með trúfesti elskaði sína allt til endans, og fyrir dauða sinn bjó svo í haginn fyrir þá, sem bezt hann

mátti. Hugsa um leið til barna ykkar, sem hann bar í hjarta sínu, og sem aptur elskuðu hann eins og maklegt var. — Að vísu eru þau nú flest í svo mikilli fjarlægð, að þau vita ekki um þann sorglega atburð, sem hjer er skeður, svo þú verður einsömul með þinni sárlega viðkvæmu og hryggu dóttur að bera hita og þunga þessa dags — hvað sagði jeg: einsömul — nei, þú ber ekki sorgina einsömul. Líttu yfir allan þenna skara, og jeg fullvissa þig um, að hjer er enginn sá staddur, sem ekki gráti með þjer, og hugleið, að þessi tár eru næsta fögur, því þau koma bæði af hlutekningu í þinni miklu sorg, og líka af þeirri ást og virðingu, er allir báru fyrir þínum sálaða elskaða ektamaka, og þar af rísandi sárum söknuði allra. — Hugsaðu út í, að andinn lifir nú sæll hjá þeim, sem gaf hann, að þið munuð aptur sjást, og aldrei framar skilja, og á þeim tíma ekki minnast hörmungar þessa dags fyrir fagnaðar sakir — hugsaðu út í, hversu glaðlega hann ætíð fagnaði þjer meðan hann bjó saman við þig í þessum dimma heimi, og ímynda þjer svo, með hvílíkum fögnuði hann muni skunda á móti þjer í morgunroða hins eilífa lífsins. Þegar þú hugsar út í allt þetta — þá gefi góður guð, að þú fáir svíað sorg þinni með tárum, og að á þjer

rætist þetta drottins blíða fyrirheiti: Sælir eru harmþrungnir, því þeir munu huggaðir verða.

Já látum oss harma hinn sáluga með þeim hætti, sem guði líkar, svo mun sá algóði faðir líka senda sinn huggara ekkju, ræktarsömum börnum og öllum ástvinum hins tregaða merkismanns.

Nú líður að því, að þessi kista verði hafin út úr þessum húsum, sem hinn sálugi hafði sjálfur byggt fyrir 21 ári, og hvar inni hann síðan hafði búið. Alvarleg og hátíðleg er sú stund, sem fyrir hendi er; guðs andi undirbúi hjörtu vor til að taka henni með kristilegri alvörugefni og hugleiðing um það, sem eptirkomandi er fyrir sjerhverjum af oss. Guð helgi þessa vora sorgargöngu.

Að lyktum kveð jeg þá þig, jafnaldri minn, skólabróðir og ógleymanlegi æskuvin — friður sje yfir moldum þínum og blessan yfir minningu þinni. — Innan lítils tíma munum við sjást aptur.

Jeg kveð þig sorgbitna systir og ekkjufrú! Drottinn blessi þig og börn þín allt til æfiloka, og úthelli í þitt og þeirra hrelldu hjörtu anda huggunar, ráðs og skilnings, svo guð verði lofaður og vegsamaður fyrir Jesúm Krist, og allir viðurkenni, að vorum guði ber heiður, dýrð og þakklæti ekki síður í sorg en gleði.

Jeg kveð þetta hús, og lýsi yfir því friðnum í

nafni guðs og þess sæla anda, hvers jarðnesku leifum vjer nú ætlum að fylgja til grafarinnar. Guð blessi eilíflega þá, sem eptir verða í þessu húsi, hann láti sitt ljós skína yfir þeim, hann veri þeirra huggari í sorginni, þeirra öflugt vígi, og fyrir drottinn Jesúm Krist þeirra miskunsamur faðir.

Jeg kveð alla með drottinlegri blessan:

Drottinn blessi þig og varðveiti þig!
Drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þig,
og sje þjer náðugur!
Drottinn upplypti sínu augliti yfir þig,
og gefi þjer frið! Amen.



# RÆÐA

## haldin í kirkjunni við líkkistu

# Dr. J. Thorstensen,

af

## Professor Dr. P. Pjeturssyni.

---

Es. 57, 2. þeir, sem þjóna drottni, innganga í frið og hvílast, eins og þeir svæfu í hvílurúmum sínum.

Gleði og líf, hryggð og dauði fylgjast að eptir eðli sínu, og þegar út af þessu ber, og lífið verður gleði-snautt, þá kemur það til af því, að dauðinn einhvern veginn læðist inn í lífið og lamar það. Eins og gleðin er fjör-æð og fylling lífsins, eins er líka sorgin förunautur dauðans, því dauðinn er ekki annað en vöntun lífsins, og þar, sem lífið þver, þar kemur í staðinn tómleikinn, söknuðurinn og sorgin; og sorgin og söknuðurinn verður að því skapi sárari og meiri, sem hið slokknaða líf var fyllingar-meira, og tengt við annara líf með við-

kvæmari ástar- og virðingarböndum. Það er því ekki furða, þó eptirsjón, söknuður og sorg hreifi sjer nú í margra hjörtum, því það líf, sem hjer er slokknað var fjörugt og fyllingar-mikið og elskað og virt af mörgum. Það líf, sem hjer er slokknað, lifði til þess, að viðhalda annara lífi, og því er það ekki kynja, þó sorgartár væti kinnar hinna eptirlifendu, þó hryggðin særi hjörtu þeirra, þegar þeir verða að sjá á bak honum, sem þeir næst guði áttu líf sitt að þakka. Sje líka nokkur hlutur hjer á jörðu virðingar- og elskuverður, þá er það vissulega líf þess manns, sem varði því til að gegna skyldum köllunar sinnar trúlega, og það, sem einkanlega auðkenndi líf þessa vors framliðna bróður, var áþreifanleg og óviðjafnanleg skyldurækt. Að vinna verk köllunar sinnar, það var matur hans og drykkur; í því var líf hans innifalið; án þess gat hann ekki lifað. — Að vitja sjúkra, hvenær sem skyldan kallaði hann, hvernig sem á stóð, hvort heldur það var á nóttu eða degi, hvort sem hann sjálfur var frískur eða ófrískur, hver sem í hlut átti, fátækur eða ríkur, vesall eða voldugur — til þess var hann ætíð jafnt boðinn og búinn, til þess að leggja jafnvel lífið í sölurnar fyrir skyldu sína. Hve erfið læknastörfin eru hjer á landi, hve örðug ferðalög hjá oss eru vön að

vera, einkum á vetrardag, bæði söknm vegalengdar, ófærðar og illviðra, er oss öllum kunnugt; hvernig það, þegar svo ber undir, verður næstum ómögulegt og bundið hinni mestu lífshættu, að koma ferð sinni áfram, vitum vjer allir. En hann þekkti ekki þessa erfiðleika; það var eins og skylduræktin klæddi hann þeim hertygjum, sem ekkert biti á; það var eins og hún lypti honum yfir jörðina, og flytti hann á vængjum sínum; hugurinn bar hann hálfa leið; þess vegna komst hann það, sem öðrum var ófært, og var fljótari í ferðum en flestir aðrir. Að vísu hafði drottinn gefið honum hraustan líkama, og meira þol og þrek og fjör en flestum öðrum; en þó hefði hann ekki getað þolað slíka áreynslu, ekki enzt eins lengi, hefði skylduræktin ekki verið hið innra lífsafl hjá honum, sem knúði hann áfram, og viðhjelt kröptum hans. En það eru forlög vor, dauðlegra manna, að hversu sterk og rammbyggileg, sem þessi vor líkamans tjaldbúð er, þá hlýtur hún þó einhvern tíma að láta undan, fyr eður síðar að hrynja, eins og allt, sem háð er áhrifum tímans, og sæll er sá, sem, eins og þessi vor framliðni bróðir, slítur sjer út í þjónustu skyldunnar, og gjörir líkama sinn að verkfæri hennar, líf sitt að farvegi hinnar eilífu hugsjónar. Sæll er sá, sem á dauðastundunni getur rennt augunum yfir sitt

liðna líf og sagt: Eg hlýt nú að deyja, af því líkaminn er ekki lengur hæfilegur til að vera bústaður andans, en guði sje lof fyrir það, að það er skyldu割rækt, að það er trúmennska í minni köllun, sem hefur unnið svig á líkama mínum, svo að mitt innra líf, minn innri maður hefur vaxið eptir því, sem hinn ytri maður hrörnaði, og þetta mitt innra og sanna líf gefur mjer nú djörfung til að deyja í drottni.

Með slíkri kristilegri djörfung gat þessi vor framliðni bróðir tekið dauða sínum. Skyldurækt hans náði ekki einungis til embættisskylda hans, heldur gagntók hún gjörvallt líf hans, og kvíslaðist um það allt, eins og æðarnar um líkamann. Skyldurækt og góðmennska voru fagurlega sameinaðar í fari hans. Góðmennskan skein jafnan út úr hans glaðlega og ástúðlega viðmóti, út úr hans gáfuðu og gamansömu viðræðum, og út úr öllu dagfari hans. En hvergi lýsti sjer skyldurækt hans, sameinuð hjartagœzku, betur en í elsku hans til konu og barna; því enginn maður gat verið ástúðlegri við konu sína, en hann; enginn elskaði börn sín heitar og innilegar; þessa ástvini sína elskaði hann ekki einungis með orði og tungu, heldur og í verki og í sannleika; áþreifandi var sú umbyggja, sem hann bar fyrir þeim, aðdáanleg sú

föðurlega nákvæmni, er hann sýndi þeim; allt vildi hann til vinna, allt vildi hann leggja í sölurnar til að gleðja þá og efla þeirra velferð. Af elsku hans til þeirra spratt einnig að miklu leyti sú fyrirhyggja, sem hann bar fyrir efnahag sínum, sú staka umsjón og eptirlit, sem hann á heimili sínu hafði á öllum hlutum, svo þar fór allt fram með hinni mestu reglu. Þessari hagsýni, reglusemi, árvekni og umsjónarsemi var það að þakka, að hann gat komið börnum sínum til menningar, og þó jafnan haldið rausn og höfðingsskap og góðgjörðasemi í húsi sínu. Eins og drottinn hafði gefið þessum vorum burtsofnaða bróður hrausta líkamabyggingu, fjör og þol og þrek fremur flestum öðrum, eins hafði hann líka ljent honum ágætar sálargáfur. Lærdómsiðkanir hans á hinum yngri árum æfinnar, og ritgjörðir þær, sem hann hefur eptir sig látið, bera um þetta órækt vitni. Hann var ekki einungis að allra dómi afbragðs vel að sjer í hinum vísindalegu greinum læknisfræðinnar, heldur var hann og mjög fróður og lesinn í öðrum vísindum, einkum þeim, sem snerta náttúrufræðina og mannkynssöguna; því eins og hann var gáfumaður, eins var hann líka mesti iðjumaður, og tók sjer jafnan bók í hönd, þegar hann fjekk tíma til þess fyrir embættisönnum. Það, sem virðist auðkenna

gáfnalag hans, voru afbragðsfljótar námsgáfur, fjör og minni; hann nam allt, sem hann las eða heyrði, og mundi allt, sem hann hafði numið. En þó atgjörvi sálar og líkama sje næsta fagurt, og verðskuldi þakklœti vort við gjafarann allra góðra hluta, af því það eru geislabrot guðlegs eðlis í manninum, þá eru þó dygðir og mannkostir, elska til hins góða og skyldurækt, enn þá fegri, af því guðs mynd einkanlega birtist í þessum siðferðislegu eiginlegleikum; þar birtist aðstoð guðs anda í áreynslu mannlegs vilja, og þetta afl, og áreynsla hins góða vilja var einhver hin fegursta prýði þessa vors framliðna bróður. Hann vildi ekki ganga við eintómt gáfnaljós, þó hann svoleiðis hefði getað komist klakklaust af í veröldinni, heldur ljet hann skylduna vera ljós á sínum vegum og lampa sinna fóta, og þetta skæra skylduljós lýsti honum fram í andlátið — fram í myrkur dauðans. Það er fagurt líf, sem þannig er uppljómað af skyldunni, það er fagurt að lifa í hennar ljósi, þá verður ekki heldur dauðinn dapur, þegar á hann slær geislum hins liðna lífs.

Það var og fagur dauði, sem vor framliðni bróðir fjekk, svo fagur og hægur, að fæstum er lánað að deyja þannig; það er að vísu satt, að hann var að verja aðra fyrir árásum dauðans, en

hvað hann sjálfan snerti, átti hann ekki í neinu dauðastríði, heldur mátti svo að orði kveða, að hann í andláti sínu væri yfirskyggður af dauðans friði. Á honum rættist það, sem ritningin segir um dauða þeirra, sem þjóna drottni, „að þeir inngangi í frið, og hvílist eins og í hvílurúmum sínum.“ Að vitja sjúkra, var hans seinasta verk hjer á jörðinni; frá þeim kom hann og fór heim til sín, og lagðist til hvíldar, og sofnaði sætt og rótt, en vaknaði ekki aptur til þessa lífs, heldur gekk inn í frið og fögnuð herra síns. Frið skildi hann hjer eptir, og frið tók hann með sjer; frið skildi hann hjer eptir við alla menn, friðarins blíða lifði og á vörum hans látins, og bros ljek um hans fölnuðu kinnar.

Með þessu friðarins blíða brosi var eins og hann vildi kveðja og hugga eptirþreyjandi ástvini sína, það var eins og hann með því vildi minnast við þá ad skilnaði, og taka þeim vara fyrir að syrgja sem þeir, er enga von hafa, því þar sem hann nú væri staddur á vegamótum tímans og eilífðarinnar, fyndi hann til himneskrar vonar, fyndi hann himneskan fögnuð og gleði brosa móti sjer úr betra heimi, og streyma um sálu sína, fyndi hann líf sitt snortið af eilífum unaði og friði. Frið tók hann með sjer, frið við guð og samvizku sína:

það skylduljós, sem hafði lýst honum hjer á lífsins vegi, og runnið saman við lífseðli hans, varð í dauðanum að friðargeisla í sálu hans, og geislinn hvarf til ljósanna föður, en hjá honum er eilífur friður og fullsæla.

Þangað safnast hinir góðu og guðhræddu ástvinir, þegar tími hvers er kominn; þar bíða þeir, sem undan eru farnir, hinna, sem á eptir koma, en þurfa ekki að bíða nema stutta stund, því innan lítillar stundar eru þeir allir farnir hjeðan og komnir heim til föðurhúsanna. Þetta sje huggun syrgjandi ekkjufrúr, syrgjandi barna og ástvina; það sje huggun vor allra. Að vísu græðir tíminn mörg sár hjartna vorra, þó þau sjeu djúp og mikil, og getur bætt margan missi, þó hann sje stórkostlegur; en hann getur ekki læknað það, sem hjer í lífi er ólæknandi, ekki bœtt það, sem er óbætanlegt. Þegar svo er ástatt, getur hann einungis sefað sorgina, gjört tilfnningarnar hægri og spakari, eða deytt endurminninguna. Þessvegna verður sú lækningin bezt, sú huggunin drjúgust í hörmum vorum, sem kemur hjer að ofan, sem er ofar öllum tíma, og streymir niður til vor út úr eilífðarinnar heimi; og þessa áreiðanlegu huggun höfum vjer í Jesú lærdómi, í orðum og fyrirheitum hans, sem á efsta degi mun segja við alla

þá, sem með mannelskufullu hugarfari rjetta sjúkum og nauðstöddum bræðrum líknandi hjálparhönd: „sjúkur var eg, og þjer vitjuðu mín!" — — — „komið blessuð börn míns föður, og eignist það ríki, sem yður var fyrirbúið frá upphafi veraldar!" En þó harmþrungin ekkja, þó harmandi börn og ástvinir hins framliðna geti leitað sjer huggunar hinumegin tímans, í guðsorði, sem aldrei bregzt, þó himin og jörð fyrirfarist — hvar á þá fósturjörð vor að leita sjer huggunar? hvernig og hvenær fær hún þann skaða bættan, þegar dauðinn kippir burt hinum merkustu mönnum, einum á fætur öðrum? og þessi vor framliðni bróðir var einn af hennar beztu sonum. Æ! hún verður, eins og allt hið skapaða að lúta vilja skapara síns, lúta vísdómsráði hins eilífa, sem stjórnar högum hennar, eins og hins gjörvalla, og hvers einstaks manns, með speki og gæzku; hún verður að treysta því, að herra lífsins og dauðans muni kveikja nýtt líf í stað þess, er að hans boði slokknaði, til að við halda menntun hennar og framförum í öllu góðu. Eins og harmandi ástvinir finna til huggunar af því, að geyma sem bezt minningu hins elskaða vinar, sem dauðinn tekur frá þeim, að geyma endurminningu hans innst í hjarta sínu, eins verður fósturjörð vor að lina og sefa harma sína með

því, að gæta vel minningar sinna góðu sona, þess vegna mun hún og jafnan hafa í heiðri minningu þessa framliðna merkismanns; og vjer, kæru vinir! viljum af fremsta megni hjálpa til þess að hugga fósturjörð vora, með því að halda á lopti minningu allra þeirra Íslendinga, sem unnið hafa sjer og henni sóma, og því viljum vjer einnig láta minningu þessa merka bróður lifa hjá oss í blessun, og leitast við að líkjast honum í skyldurækt og öðrum manndygðum.

En þú, sem hefur líf og dauða í þinni hendi, algóði himneski faðir! gef þú oss náð til þess, að verja vel þessum vorum fáu hjervistardögum, svo vjer gegnum trúlega þeim skyldum, sem þú hefur oss á hendur lagt; þá munt þú einnig af náð þinni á síðan gefa oss trúrra þjóna verðlaun. Sendu þinn frið og þína huggun niður í hjörtu allra þeirra, sem hjer trega burtför þessa þíns trúlynda þjóns, lát þú þá finna, að allir þínir vegir eru einber miskun og trúfesti, að þú ert ávallt góður gæzkuríkur, hvert heldur þú gleður eða grætir, gefur eða burttekur, og að því ber öllum jafnan að vegsama þitt heilaga nafn.

Amen.



# RÆÐA

haldin í kirkjunni við líkkistu

# Dr. J. Thorstensen,

af

Dómkirkjupresti prófasti Ó. Pálssyni.

---

Drottinn! þú ræður lífskjörum vorum — þú kallar oss til sorgarfundanna, eins og frá þinni hendi eru hinar glaðari stundir vors lífs. Í þínu nafni viljum vjer nema hjer staðar — og í því ganga að gröfinni, sem til reiðu er. Vjer syrgjum, en gjörum það eins og þeir, sem hafa vonina til þín. Gef oss að huggast í henni, huggast við það, að þótt hjer liði út það líf, sem vjer hefðum óskað, að mætti vara sem lengst, — þá við helzt það, og varir í sælla ástandi hjá þjer — já þar veitast launin þeim, sem vann þjer trúr til enda, og ljet ekki þreytast. Amen.

Svo höfum vjer komið saman, háttvirtu og elskuðu syrgjendur! og erum staddir hjá hinu dauðlega, sem þessar fjalir geyma, að ein og hin sama er tilfinningin, sem býr í brjóstum vor allra — en það er tilfinning saknaðarins og hjartans alvarlegu og einlægu sorgar — sú, sem þá jafnan sameinar svo sem í eitt hugi og hjörtu hinna mörgu á stundum sorgarinnar, hvenær sem dauðans sterka hönd hefur hrifið til sín frá oss þær fórnir, sem vjer, hver fyrir sig, og allir samhuga mundum hafa kosið að láta henni í tje, svo sem það gat seinast verið eptir náttúrunnar lögum. — Já, sú er tilfinningin, sem hreifir sjer hjá oss öllum, þótt með ýmsum hætti, þegar sá hefur við aðkall dauðans horfið úr söfnuði vorum, sem vjer virtum; því hann var hans prýði, hans öflug stoð, og vann honum til heilla í mikilsvarðandi köllun — sem vjer elskuðum, því vjer reyndum og fundum það, hve mikilsverð drottins gjöf oss til handa að var það líf, sem þannig var varið oss til góðs — já, sem einnig fyrir þær dyggðir og mannkosti, sem skörtuðu í fari hans daglega, og drógu til sín hjörtun, var mörgum hjartakær — þegar sá, sem svo er oss mikils verður, hefur hlotið að hlýðnast því lögmáli dauðlegleikans, er eitt sinn gengur yfir oss alla — og vjer svo

komum saman til þess, að kveðja hann hinni síðustu kveðju vorri, og láta hans dauðlegum leyfum hina síðustu þjónustu í tje — þá er þar söknuður og sorg í hjörtum vorum — sorgbitnir minnumst vjer þess, og finnum það þá, hvað oss er þetta líf, og hversu fallvalt og hverfult allt það, sem bezt verður notið hjer á jörðu — hvernig af henni hlýtur að hverfa, og hefur þar ekki blífanlegan stað, jafnvel það, sem er í sjálfu sjer óforgengilegt, en það er dyggðin sjálf, með sínum sanna og varanlega heiðri — hún, sem í sanni er elskuverðust og ágætust af því öllu, sem hjer gefst að njóta.

Þannig höfum vjer næsta margir safnast að líkkistu þessarí — á hana líta allir augum sorgarinnar, því mikils verður og kær oss öllum var sá, sem skildi eptir þá dauðlegu líkamans tjaldbúð, er hún geymir — hann er burtkallaður frá oss, hinn heiðraði og elskaði yfirlæknir þessa lands, jústitsráð og doctor í heimsspekinni Jón Þorsteinsson — hann er genginn til sinnar hvíldar, eptir útendað atorkufullt líf, sem helgað var óþreytandi skyldurækt í hinni mikilsverðustu köllun. — Eins og sannkölluð sorgarfregn mun sá boðskapur berast og snerta hjörtu margra, jafnvel um hinar fjarlægari byggðir lands vors, því hann var bæði uppbygging þess og sómi. En sjer í lagi er

hann svo kominn til vor, sem byggjum hjer nær — það er útslokknað ljós þess lífsins, sem svo að segja hverja stund helgaði oss og þörfum vorum alla hugsun sína og alla iðju. Sárt saknaður hefur hann skilið hjer við, um fram allt af þeim, sem í viðskilnaði hans hafa kennt á þeim sárum hjartnanna, sem ekkert jarðneskt kann að græða að fullu.

Já allir syrgjum vjer — og ekki viljum vjer neita hjörtum vorum um þá svölun, sem það veitir að færa þá skylduga fórn minningu þeirra, sem skildust svo við oss, að vjer geymum tilfinningar elsku og virðingar eptir þá liðna. En ekki einungis til þess að syrgja, dveljum vjer hjá dauðlegum leyfum þeirra hina síðustu stund. Því hvarfyrir höldum vjer þó þá samfundi vora í helgidómi drottins, en hvergi annarstaðar? þar sem optast talar til vor guðsorða raust? Í sanni ekki til annars en þess, að einnig þá skulum vjer heyra hana — og það því að hún er ekki einungis sú, ser kallar oss til að syrgja, heldur er hún raust huggunarinnar frá guði. Þó vjer sorgbitnir finnum til þess, hversu hverfult lífið er, þegar vjer þannig sjáum því á bak hjá öðrum, þá talar þó til vor eitt orð frá drottni, sem kennir oss að meta rjett þann hverfulleika þess — það er af

bók hinna sömu lífsins orða, að oss verður lesin, og vjer heyrum þá upp lífgandi kenningu, sem leiðir oss fyrir sjónir, að þarfyrir forgangi þessi lífsins jarðneska mynd, ad önnu algjörðari komi fram — að það líf, sem hjer var helgað skyldunni, og sem aldrei hjer getur höndlað það, sem það í æðstum skilningi fórnfærir fyrir öllum kröptum sínum — það hefur ekki sitt algjörða takmark við þessa gröf. Hún sjálf, sem er takmark þess af tilveru vorri, er vjer með rjettu köllum jarðneskt, bendir oss þangað, sem að er hvíld og friður til handa þeim, er hjer gengu fyrir drottni — þangað, er hinn trúlyndi öðlast fullan fögnuð síns herra, og það sannast hinum rjettláta að fullu, að minning hans „blífur í blessun". Þannig er það, með því að skoða lífið í því ljósi, sem vor trú útbreiðir yfir myrkur grafarinnar, að vjer ekki einungis syrgjandi þurfum að segja skilið við þá hina elskuðu, sem burtkallast frá oss — það, sem er vort sorgarefni, í því er og svo vor huggun — sú einmitt, að rifja upp fyrir oss og geyma í huga minninguna um það líf, sem var oss svo dýrmætt.

Svo viljum vjer og gjöra á þessari stundu, og minningin um, hvað að var oss það líf, sem hjer hefur útslokknað, og þess ljós lýsir ekki hjer lengur, heldur á landi hinna lifendu guðs — hún

skal hugga af þeim missi sem hjer hefur borið að hendi, hvort sem hann meira eða minna gengur hjörtunum nærri.

Þessi vor elskaði framliðni landlæknir er fæddur í þenna heim þann 7. júni 1794, af góðum ættum, innan Húnavatnssýslu, og þar ólst hann upp hin fyrstu ár æfinnar; og næsta snemma sýndi hann merki um þær lifandi, fjörugu gáfur, sem það var í alla staði verðugt, að leitað væri menntunar. Og þegar sá vegur var opnaður, þá var hann genginn með þeim hraða, og þeim heiðri, sem skarpleiki gáfnanna, sameinaður iðjuseminni, gat framast látið í tje. Þannig lauk hinn framliðni lærdómsiðkunum sínum, bæði í skóla þessa lands og í háskóla ríkisins, hvervetna með hinum beztu vitnisburðum — og að sá heiður hafi verið álitinn verðskuldaður, um það er það hinn órækasti vottur, að yfirlæknisembættið yfir Íslandi var honum þegar veitt af konungi vorum á meðan hann að eins var à 24. aldursári, en það var í desembermánuði 1819 — þá þegar stóð hann reiðubúinn til þess, að gegna þeirri vandasömu köllun, sem hann svo mörg ár hafði á hendi til sæmdar og heilla ættjörðu vorri, útbúinn til þess með þeirri þekkingu, sem einungis fáir munu hafa öðlast á þeim aldri — svo gekk hann að verki sínu á meðal vor á unga aldri, og

rúmu ári þar eptir inngekk hann þá sameiningu með sinni eptir lifandi ekkjufrú Elínu, dóttur amtmanns sál. Stephans Stephensens, — þá sameiningu, sem dauðinn hefur nú sorglega slitið. En — þó hjer væri gengið að verki köllunarinnar með þeim hæfileg-leikum þekkingarinnar, sem mestir verða fengnir, þá var þó ekki numið staðar við þetta — hinn framliðni gleymdi því aldrei, að svo má verja lífsins árum, að ekki fyrir reynsluna eina, heldur og fyrir iðkanina sjeu þau lærdómsár. Hjer var sá maður, sem aldrei ljet þreytast að auka fjársjóð sinnar þekkingar, sem mat mikils, og unni sjerhverri uppgötvun hins sanna, ekki einungis í því, sem átti skyldast við stöðu hans, heldur og á margan annan veg. Fáir munu eins skarplega og hann hafa lesið á gjörvalla náttúrunnar bók, eða verið eins fróðir um sögu og háttsemi annara þjóða. Eins og þvílíkur iðkari vísindanna var hann þekktur og virtur, ekki einungis hjer á landi og um það ríki, sem vjer heyrum til, heldur og jafnvel um fjarlægari lönd, og þaðan bárust honum þau merki, sem sýndu það. Og sú virðing, hún veittist svo, að einnig ættjörðin naut hennar fyrir það, að hún gat talið þvílíkan mann meðal sona sinna. Og þökk á sá jafnan skilið af meðbræðrum sínum, sem þannig með stöðugri lærdóms iðju rekur brautir sannleikans.

Því hann er einmitt sá, sem skygnist inn í ljósið, og tíðast og svo tendrar það, svo það lýsi öðrum til gagns. .Og svo erum vjer hjer staddir á þessari skilnaðarstundu, að söknum þess manns, sem þegar í þessu falli var oss mikils verður. — Hann er hjer ekki framar, en svo viljum vjer líta á hans sorglegt hvílurúm, að vjer snúum hugum vorum þangað, er andi mannsins jafnan stundar með allri æðstri eptirleitan sinni — þangað, er hann ekki lengur leitar, heldur hefur fundið það, og sannleiksins ljós skín fyrir augum hinnar frelsuðu sálar, án þess nokkuð lengur formyrkvi það — lítum þangað, því ogsvo þaðan skín huggunarinnar ljós niður til þeirra, sem sakna og syrgja — hún er í því, að sjá þar fullkomnun þess lífs, sem hjer var helgað eptirleitun hins sanna, hvernig sem það er þekkingar vert.

En þó fjelag vort, já, vjer kveðum svo rjett að orði, ættjörð vor syrgi hjer þann mann, sem á fleiri vegu var einn af þeim sönnu og uppbyggilegu vísindamönnum — þá gætti þó þessa mest, og þekkingarinnar ljós lýsti fyrir mönnum fremur öllu í þeim hlutum, er heyrðu til því embætti, sem hann hafði á hendi um full fimm og þrjátíu ár, eins og yfirlæknir þessa lands. Vjer vitum hversu vandasamt og þarhjá hversu örðugt það er — en hitt hefur eins frá upphafi til enda verið viðurkennt.

að hann skorti engan þann hæfilegleika, sem til þess útheimtist að standa svo í þeim sporum, eins og það varð bezt kosið. — Og sönn hrósun er það, að geta svo þegar á ungaaldri gengið að miklu köllunarinnar verki — en hin er þó meiri, sem hjer verður með fyllstum sanni borin fram, að embættinu var gegnt með þeirri árvekni, reglusemi og trúmennsku, sem í sanni mátti kallast frábær — og fyrir það veittist honum heiður frá æðri stöðum — þótt vissulega enganveginn fremur, en það var verðskuldað. Áhuginn á verki skyldunnar var sívakandi, svo að segja bæði á nóttu og degi. Lífsfjörið, sem hinum framliðna var veitt í ríkuglegum mæli, var aldrei dregið í hlje — og hversu mikinn örðugleika, sem skylduverkið færði með sjer, var jafnan gengið að því með hinni sömu glaðværð, — hjer var ekki látið þreytast að vinna það verk, heldur var það jafnan álitið heilagt, og svo sem fyrir öllu; þessa naut gjörvallt það umdæmi, er hinn framliðni var settur yfir, en daglegt vitni að því var þetta vort bygðarlag, þar sem hjálparhöndin tíðum optar hvern daginn var útrjett, hver sem þurfti hennar liðsinnis. — Já minnisstætt má oss öllum vera það, hvernig þessu var haldið áfram ennú hinn síðasta lífsins dag, og það þegar lífsfjörið var fyrir nokkru svo þverrað, að guði

einum var það fullkunnugt. Þannig viðhjelzt skyldu-ræktin til hins síðasta — og þó nokkrum af oss sje það kunnugt, að hinn framliðni horfði glögglega fram á þau umskipti, sem orðin eru, þá heyrðist hann þó aldrei kvarta yfir, að hvíldarinnar væri þörf — en hún kom hæg og ljúf frá þeim, sem veitir hana. Mitt í skyldunnar þreytandi störfum var hún send hinum trúlynda — hann hvíldist svo af sínu erfiði, að sjaldan verðum vjer eins berlega minntir á, hve sæll sá er, sem herrann ljóssins finnur vakandi. Og með þessari trúmennsku, sem stóð svo stöðug til enda, var margt það sameinað, sem gjörir manninn, einkum í þessari stöðu, verð-ugan allrar elsku; hjer var hin stöðuga nákvæmni, sem allir kannast við, að hve miklu leyti tíðum er eins og lækning hins sjúka, en umfram allt var þar hið ósjerplægna hjartalag, sem aldrei leit á neinn hag, heldur eins fúslega rjetti hjálparhöndina þeim hinum fátæka, sem ekkert gat látið af hendi rakna.

Því er hjer söknuður og sorg eptir þann mann, sem með dugnaði sínum og árvekni hefur á meðal hinna eptirlifandi reist sjer þann minnisvarða elsku og virðingar, sem næsta lengi mun verða við líði — já, reisti sjer hann einnig í hjörtunum, sem fleiri en vjer fáum talið leggja blessun yfir þá

óþreytandi hjálparhönd, sem hjer er kólnuð. En — svo skulum vjer allir bera söknuð vorn, að vjer minnumst þess einnig, hverju þeim er heitið, sem svo eru stöðugir í því verki, sem drottinn fjekk þeim að rækja, sem svo eru í hinum eiginlegasta skilningi trúir allt til dauðans. Margur, já mjög margur, sem lítur þetta sorglega hvílurúm, minnist á þann, sem blundar í því, og segir viknaður í hjarta sjer: „Sjúkur var jeg og þú vitjaðir mín" — en hinn sami minnist og svo hins, hvernig hið sama orð mun eitt sinn hljóma til þess, sem vann það heillaríka verk. Á þetta vísar oss drottins orð — það er huggunin, sem það gefur, einmitt í því það afmálast fyrir oss, hve mikils vjer höfum að sakna — og hún búi hjá oss öllum, ekki einungis á þessari stundu sorgarinnar, heldur búi í hjörtunum varanlega.

En — vjer söknum hjer mannsins, sem vjer elskum og virðum enn nú eptir hans dag, ekki einungis fyrir það, hvað hann var og vann í embættisstöðu sinni, heldur og svo fyrir það, hvað hann var svo sem fjelagsbróðir vor. Og svo þar, sem embættisköllun hans ekki náði til, var hugsunin tíðast vakandi á hverju helzt því, sem horfði til almennings heilla, og orð og verk jafnan til reiðu til þess að styðja að eflingu þess. Við þetta könn-

uðust allir; um það er það hinn ljósasti vottur, að bæði frá æðri stað og frá meðborgurum hans kom til hans sú köllun, að taka þátt í hinni ráðgefandi þjóðsamkomu þessa lands, og þar kom hann fram eins og sá, sem með áhuga studdi gagn fósturjarðar sinnar. Og fyrir það var hann að verðugleikum mikils metinn. En — minnumst vjer hans, svo sem hann var á meðal vor, þá er oss hitt einnig minnisfast, sem enn fremur hneigði til hans hjörtu vor allra — en það var hin hreinskilna tilgerðarlausa umgengni, sem jafnan hafði glaðværðina sjer sameinaða, og það þá, sem ekki var sprottin af neinni hjegómlegri rót, heldur leitaði tilefnisins í því, sem þarflegt og fróðlegt var. — Að því laut optast orðræðan — og hver elskar ekki umgengni þeirra, sem svo er varið? En — einnig í verkinu sýndi hinn framliðni sig elskuverðan, eins og sá, sem sannaði það, að í mannlegu fjelagi ber að hugsa ekki einungis á sitt eigið, heldur líka annara; höndin var opt útrjett til góðgjörðanna; margur var sá, sem á yngri árum naut hælis í húsi hans og grundvallaði þar sína lífsins lukku; þetta var af honum unnið samhuga með henni, sem átti með honum sameiginleg lífsins kjör, — og enn nú hefur hann þannig látið hjer eptir hina ungu, sem einlæglega syrgja hann, eins og börn ástríkan föður sinn.

Og minning þessara hluta, sem lifir hjer eptir hann, harmdauðan hvervetna. hún skal þó hjá oss sameinast hinni, sem ekki lætur oss gleyma, að hver, sem svo er á meðal bræðra sinna, hann niður sáir til ávaxta rjettlætisins, hann vinnur þau verk, sem í sanni samferðast honum hjeðan.

Þangað, sem hann er vikinn, lítum vjer augum saknaðarinns, þangað, sem það er vor hughreystandi von, að æðri og fullkomnari fjelagsskapur sameini oss þeim, sem voru oss svo mikilsverðir.

En — þótt fráfall þessa mikla manns sje sannkallað sorgarefni hinum mörgu, já — þótt margur syrgi hjer þann, sem hann með rjetti taldi sinn beztan vin, þá eru þó sjerílagi þeir hjer eptir, sem yfir legstað hans munu lengi fella, ekki einungis saknaðarins, heldur sorgarinnar beisku tár, — en það eru þau, sem hjer voru honum sameinuð með nánustu böndum náttúrunnar, — þau, sem hann var það allt, er bezt mátti verða, eins og ektamaki og faðir. Sára hjartans sorg ber hin heiðraða ekkjan, sem hátt á hið þrítugasta og fjórða ár átti hjer samleið lífsins með hinum framliðna, naut af honum hinnar sömu óbreyttu ástar og trúfesti, hvað sem hjer var að reyna, þeirrar ástar, sem árafjöldinn jafnan tengdi fastar og tryggar. Í sanni getum vjer hver og einn tekið

hjer þátt í sorginni, þótt það hjarta, sem sverðið gegnumstingur, eitt finni að fullu, hvað það hefur að reyna, þegar dauðans hönd slítur hin viðkvæmu böndin, er tengdu það við það hjarta, sem ekki bærist hjer lengur, — þegar lífsins sönnustu gleði er þannig svipt í burtu, og þar er myrkt á veginum, sem áður var ljós, þar sorg, sem áður var gleði. Vjer, sem hver og einn einlæglega viljum hlýðnast því boði, að gráta með grátendum, sem allir mundum óska, að geta rjett út hendur vorar, til þess að ljetta sorgarbyrðina, — hvað getum vjer þó gjört annað en það, sem guðsmaðurinn forðum, að „vona á drottinn“? — því með því hughreystum vjer sjálfa oss og hana, sem syrgir hjer sárast. Til hans hefur enginn forgefins vonað, eða varpað áhyggjunni upp á hann, en augu vonarinnar geta þó að síðustu aldrei horft annað, en til hans föðurhúsa, þar sem vænt er gleðiríkrar sameiningar við þá, sem hjer ljetu oss sorgbitna eptir; því grundvallaðri er sú von, sem sá var meira verður, er vjer með grátnum augum lítum á bak. Og hið sama sje og huggun barnanna, sem hjer syrgja elskaðan föður. Þrjú afkvæmi hafa þegar á landi hinna lifenda fagnað heimkomu föðursins, og fimm lifa hjer enn nú eptir, en aðeins einu þeirra veitist sú svölun, að líta þann staðinn, hvar

hann verður lagður; hinum öðrum hlýtur til fjarlægari staða að berast sorgarfregnin, sú, að hann sje fallinn frá, sem þau öll eru lifandi vottur um, að og svo í þessari stöðu var það, sem nokkur framast getur orðið, — var hinn sannkallaði ástríki, umhyggjusami faðir, sem aldrei ljet neitt það vanrækt, er miðað gat þeim til sannra heilla, — og sár er missirinn, þegar þeirri nákvæmu hendi er burtu svipt, á meðan enn nú þurfti hennar hjálpar við, — og hjer er það tilfellið með nokkur af hinum syrgjandi. En sú sorg, sem er að reyna, þegar þess verður ekki lengur notið, sem hin nákvæma föðurhönd vann, — hún minnir á það, og hún bendir sannarlega til þess, — að yfir oss öllum er ein föðurhönd, sem dauðinn aldrei getur svipt mætti sínum, en það er hönd föðursins á himnum, því hans ímynd ber hjer hver því fremur, sem hann rjettilegar getur nefnst góður faðir barna sinna; og hann sje vernd þeirra, sem hjer syrgja þann, er þetta gat með mestum sanni heimfærzt til.

Með virðingar, elsku og viðkvæmrar sorgar tilfinningum gengur hver, að sínu leyti, að þeirri gröf, sem meðtekur þetta hið dauðlega í sitt skaut, og af þeim byggist það óforgengilega minnismerki, sem lengi mun prýða hana, og bera það letur, er

tímans lengd mun seint fá afmáð, því það er, eins og minning hins mikla og góða manns, ritað á hugi og hjörtu sinna eptirlifenda, og geymist þar „frá kyni til kyns“. Svo mun jafnan verða minnst á hann, og blessun lögð yfir þá minningu; — já, þetta vort land mun trauðlega verða svo lengi byggt, að ekki geymist hún einnig; það er sá heiður, sem ríkuglega og maklega mun veitast þessum framliðna, æðri og meiri en sá heiður, sem eingöngu er jarðneskur. Og vjer, sem höfum notið þess uppbyggilega lífs, sem hjer er á enda, göngum svo hjeðan að gröfinni, að vjer þökkum drottni guði vorum, því það var hans gjöf, þökkum honum, og biðjum og svo, að svo framleiði hann sem flesta til þess, að efla heill og heiður lands vors, — já, biðjum þess að lyktum, að svo varðveiti hann til enda í trúmennskunni hvern og einn af oss, að vjer vinnum stöðugir í því verki, sem hann fjekk oss, og að síðustu bíði vor hin sama sæla hvíld, sem hjer hefur veitzt hinum þreytta.

Amen.



# Við gröfina.

Svo þyggur gröfin sína fórn — svo hverfur það aptur til jarðarinnar, sem af henni er komið — en það dauðlega eitt er það, sem hún getur hrifið frá oss. Hitt geymum vjer hjer eptir. sem hennar vald aldrei fær náð til. en það er blessuð minning hans, sem hjer geldur þá skuld, er vjer allir skulum gjalda. Frá þessu myrkva svefnhúsi hefjum vjer hugi vora til þess hússins hjer fyrir ofan, sem ekki er með höndum gjört. Þar lifir hinn sæli andinn, og lifir þar og skín í allri eilífðarinnar fegurð, sem vjer þakklátir geymum hjá oss — og þaðan væntum vjer og eitt sinn að heyra þá rödd, sem kalla mun til lífsins einnig þetta hið dauðlega, sem vjer innvígjum til upprisu hinna rjettlátu guðs:

Af jörðu ertu kominn.
Að jörðu skaltu aptur verða.
Af jörðu skaltu upp aptur rísa.





Vis sua sceptra tenet leti; sed nescia mortis
inclyta fama manet; manet alta mente repostum

NOMEN

JONAE THORSTENSEN,

Medici generalis Islandiae,

Creati Doctoris Philosophiae Universitatis
Marburgensis,

Titulo „a consiliis justitiae" a Regis
Maiestate donati.

Qui natus est. a. d. VII. Id. Jun. a. D. MDCCXCIV.
Medicus patriae factus est a. D. MDCCCXIX.
In matrimonium duxit, a. d. XI. Kal. Jul. a. D.
MDCCCXXI. nobilissimam

**HELENAM STEPHANI STEPHENSEN,**

quacum liberos habuit octo, quorum tres defuncti;
quinque autem unacum matre patrem optimum
et coniugem praestantissimum lugent,

Defunctum a. d. XV. Kal. Mart.

MDCCCLV.

---

Erat vir excellentissimo ingenio praeditus, summa doctrina et eruditione gaudens, et in munere administrando infatigabilis; quem neque labor neque morbus, sed fatum inevitabile ex vivorum numero sustulit.

Quem lugemus omnes, qui eum viva voce loquentem audiverimus; nam in omni genere scientiarum tam excelluit, colloquiumque tanto lepore et gratia condiit, ut vivo Musarum fonte exundans omnium animos adduceret; lugemus eum, quibus cordi est decor patriae, vita honesta, justitia pia, diligentia indefessa, studium Musarum, exemplum imitandum.

---

Non sine successu vixit, cui fama perennis
nominis alta manet.
Eius et exemplum, factis memorabile fultum,
sit tibi cura sequi.
Tu, qui corde colis patriam, patriaeque decorem,
accipe, sisque memor:
Sunt pietas, studium, virtus, sollertia, cura,
ardua quæ superant.
Quæ semper gignunt magnum et memorabile nomen,
quod tenuere boni.

Ergo, quantumvis nunc tristia pectora pulset
    funeris atra manus:
Attamen insigni fulgebit Gloria curru,
    ipsaque lumen habet.
Nam bene qui vixit, non illi nascitur umquam
    interitura dies.
Accipe nunc nostras dignas de pectore grates,
    Paeonia' arte potens!
Quamvis sublatum te ad sidera cernere non fas:
    „Pulvis et umbra sumus".

Epitaphium hoc Manibus Defuncti nostri posuit

Benedictus Gröndal.



Hjer geymir mold
í myrku skauti
á sólarheims
hinnstum beði —
(hún tekur við
þegar heimur deyr) —
meginstyrkan meið
mæring þjóðar:

# Jón Thorstensen,

Landlækni Íslands,
Jústitsráð og Doctor í heimsspeki við Marborgar
háskóla.

Hann var fæddur hinn 7. júní 1794; tók við lækn-
isembætti 1819; giptist hinn 21. júní 1821
Fröken ELÍNU STEPHÁNSDÓTTUR STEPHENSEN,
og eignaðist með henni átta börn,
af þeim hvurfu þrjú strax til andanna föðurs,
en fimm harma ásamt hinni göfugu Ekkjufrú hinn
horfna mæring, andaðan hinn 15. febrúar 1855,
einhvern hinn lærðasta mann á landi hjer, og
óbilugan að minni; jafnt hugljúfan og góðan, sem
óþreytandi við hið þunga starf, þótt langvinnt
erviði hefði loksins gert líkamann lúinn.

---

Hann hefur dauðans dimma nótt
döpur frá starfi hrifið miðju.
Það er svo skelfilegt, er skjótt
Skapanorn býður: „*hættu iðju!*“
Hún lætur slitna lífsins þráð,
lítur ei við þeim neitt, er gráta.
En hún er æðri herra háð;
hann mun sorgbitna gleðjast láta.

Því þú, sem veglegt vildir allt,
sem valdi guð í heiminn fríða,
vissulega það skilja skalt;
skugginn mun frá þjer burtu líða.
Blæjunni dimmu bregður frá
bjartur engill í dýrðarskrúði;
eyrað mun heyra, og augað sjá
það enginn hjer á jörðu trúði.

Og þú, sem alt af vannst svo vel,
og vaktir yfir hverjum aumum;
þú finnur nú ei frost og jel,
fögrum þú blundar nú í draumum.
Þín minnist heilög himinmey,
sem hlustar æ til jarðar niður:
*Saga* er það; hún sefur ei:
sælt er hjá henni ljós og friður.

Gullstreng hún núna nýjan slær
niðfögrum rómi' á hörpu sinni;
liðnum þjer eilíft lof hún fær,
það líður aldrei burt úr minni.
Og hún grefur þitt góða nafn
á gullið spjald hjá fögrum meiði,
þar sem að háleitt hetjusafn
hvílist, og sefur undir leiði.

---

Svifinn er hann burtu
frá böli jarðar
húsfaðir beztur
blíðastur faðir;
þangað sem aldrei
í ægi rennur
sól að vindköldum
vestursölum.

Geymdu, móðurmold
mærings leifar
vel og vandlega;
því víst er það:
að þjer hann vann,
fyrir þig hann dó;
ekki muntu aptur fá
annan betri.

Þú geldur þitt:
það er dauðans beður;
vjer gjöldum vort:
það er vein og tár.
Lítið er það
fyrir lángvinnt starf;
en annað betra
er nú ekki til.

Svo hverfur líf,
fyrir láð ofan;
vitum það allir vel.
Falla lauf,
en lifna síðan
aptur að öðru vori.

Huggastu, brúður,
harmdögg slegin;
minnstu á moldar lög;
að á hverfanda hveli
var hlutur laginn
manns á valtri vog.

**B. G.**





# Jón Thorstensen.

Er tíminn var kominn að taka hans önd,
þá talaði Drottinn: Nú hvílist hans hönd!
Nú sefur hann. Dauði! þú sækja hann átt,
en sigðinni varlega beita þú mátt:
Hann sofi og sjái þig ekki.

Hann vaknaði þó ekki vinunum hjá,
sem væta með tárum hinn stirðnaða ná,
hann vaknaði í geisla, sem glaðlega skein
hjá guði, sem læknar öll tímanna mein; —
Hann lifir og leit ekki dauðann.

Og hversvegna? það skilur þú sem að manst,
hinn þrautgóða læknir og hjálpina fannst,
er stynjanda' á beðinu stóð hann þjer hjá
og studdi þinn vin, þegar sigðinni brá
hinn kaldi hinn kveljandi Dauði.

En það, sem oss gleymist, því gleymir ei hann,
sem góður er sjálfur og rjettlæti ann;
og þessvegna guð þannig gaf honum frið;
vjer gleðjumst með honum — og stutt er vor bið:
Vjer sjáum hann sælan í friði. —

*St. Thorarensen.*



# Jón landlæknir Thorstensen,

(d. 15. Febr. 1855).

*Hlýði, hapta-beiðis*
*hefk míldinga gildi!*
*því bjóðu vèr þögnar*
*þegna tjón at fregnum.*
Glúmr Geirason.

---

Enn varð öldurmenni,
orð frágum þau norðan,
Skuldar hnje höldr í hildar
hríð, andarrán bíða:
Jón, varð áðr hinn auði,
ítr nam lífi slíta,
þungum þjáðr of lengi,
Þorsteinsson, dauða vonum.

Opt nam áðr skipta
eljadeilis af heilu
líknargrösum læknir
lands með viðum branda;
græddi margan af mörgu
meini lýða hleinir,
nú er græn hin gróna
grund yfir lauka þundi.

Þirmdi aldreigi öldu,
ótrauðr sá dauða
beið, ef bót hann rjeði,
brandálfr sèr sjálfum:
aldrei verðr á jörðu
annar neinn læknismanna,
öld leyni eg því aldri,
álræfra þeim næfri.

Hlífði lítt meðan lifði
lægisvörðr í hörðum
kulda-kólgum elda
kappör sínu fjöri;
og er að æfi vegi
enduðum sára kenndi,
bifðist lítt hins leyfða
lofsnart skörungs hjarta.

Gekk við móðinn mikla,
móðr af störfum góðum,
inn sá er opt barg mönnum
enn í dauða sennu:
þrek bar mætr á móti
minn í hinnsta sinni
æskureynir og rauna
rimmu heljar-dimmu.

Heyrðist aldreigi orði
einu, þó kenndi meina,
mæla öðru nje æðru,
enn til starfs of nenninn:
hinn er í hjálpar-önnum
harm kaldan, hins aldna
lest varð bein nær brjósti,
beið, heilinda greiðis.

Varð, en slíkt mun verða
víðfrægt mönnum síðan,
þundr í þremja vindi
þróttfár aldreigi sóttar:
svo hnje loks hinn leikni
lífs í ægidrífu
menjavaldr til moldar
mærr, að svo mun færri.

Dauðr sat draupnis hlíðar,
drótt, var slíkt af þrótti,
njörðr, beið harm til harðan
hans, í sínu ranni:
kaldan fann á kveldi
kyngóð, mærð er bjóðum,
bjarta nam böl að snerta,
brúðr sinn ver í inni.

Kunnugt varð mest þá mönnum
mildr hve bjarga vildi,
kominn var hann, til ens hinnsta,
heim frá sjúkum beima:
fús var endr til enda
andþings, lógir hringa,
þann hafa menn að minnum
móð, til alls hins góða.

Njótr er hniginn neytra
nálands sóttar granda,
fallinn og feigðartrolli
fárbjóðr í gin Nára:
þess skal hróðr ens heiða
hár einkveðinn, sára
áðr kunnum þann eyði
ungir, á mína tungu.

Skyldir erum góðu gjalda
gott, minnist þess drottinn!
opt er auðarskiptir
eitt fáráðum veitti:
sú mun rún, en rjeni
römm sorg Heita borgar
lands því lýsigrundum,
ljóma, að efsta dómi.

Lètt verði nú látnum
lagarbeins und steini
fold, sje móður mildri
mold svo skuld of goldin!
en friði guð góða,
gefst sú von aldasonum,
hreina önd og handan
hans í betra ranni!

*G. B.*

# Minning
# Jóns Thorstensens
## landlæknis Íslands.

---

Núna er nótt um heiminn;
niðdimman þekur láð;
hjartað samt heyrir eyminn —
hátt stynur fjarlægt gráð.
Æ, hverju er það háð? —
Sútum og sviða köldum
af sorgar-dimmum öldum,
sem eyða dug og dáð!

Hver ertu, dimman dapra,
sem dvelur yfir grund? —
Hver ertu, neyðin napra,
sem nemur frá oss blund? —
Hver ertu, stríðin stund,
er sút og sviða köldum
af sorgar-dimmum öldum
oss vekur eymd og und?

Þú ert það, hverfð af hæðum,
þú himins nóttin blíð!
Þú ert það, afl í æðum,
sem eilíft vekur stríð!
Þú drottins dýrðar-tíð!
Alheimur allur sefur;
enn þú þá vöku hefur,
og faðmar land og lýð!

Þú vefur allt í örmum,
eilífðar vizkan há!
Þú ræður heill og hörmum
við hvert eitt minnsta strá.
Þjer lýtur bylgjan blá;
dautt allt og fjör á foldu;
flugan og nár í moldu
örlögin fær þjer frá!

Fyrir þjer leiptrin líða
lífsins á jarðar braut,
sem blómi sumar-tíða
svellur um grundar skaut;
einn spratt þá annar laut
fölur að bana-beði;
bros öðrum fæðing ljeði;
fór burt og fæddist skraut.

Eins máttu guð minn góður,
gagnskoða manna leið.
Einn gleðst, en annar hljóður
eymd stríðir við og neyð.
Þú lítur líf og deyð;
en þú ert öllum yfir,
og eilíflega lifir;
sífelt er sól þín heið.

Hvað væri fjör á foldu,
fegurð og ástin skær.
ef yrði allt að moldu.
sem engum móti hlær?
sem enginn elskað fær?
sem krapta engum eykur?
sem eyðist líkt og reykur,
og hrekur hver einn blær?

Nei, dauðinn má ei draga
svo dimmt og eilíft ský
á liðna, ljúfa daga,
er ljet oss gleðin hlý.
Það verður veröld ný; —
en hverjum leidd með lögum? —
Þú lífs er stjórnar högum,
þú ræður. Ráddu því!

Já, svona rennur lífið allt af eins, —
sem frostið dreifir rós á svellgan svörð:
skammvinnri mynd, sem skrautleg er um hríð,
á meðan kuldinn lætur hana lifa;
en þegar upp af austurstraumum rís
sólin, og geisla slær um fjall og dal,
inndælum, hægum ógnarkrapti búin:
þá bráðnar allt, og burt er rósin horfin,
og rennur skjótt í skæra vatna-lind.
Allt eins er lífið: stutt og stríði háð,
það líður fram í frosti böls og harma;
því drottinn þannig lagði vora leið.
En undir eins og drottins dýrðar-hönd
skýinu eyðir, skuggann burtu tekur,
sem endanlegum sjónum eilífð hylur:
þá geislar fram hans gullna náðar-sól:
þá lítur augað hann; og lífið deyr:
og andinn, sem frá eilífð getinn var,
hann hverfur út í himinlífsins strauma.

*　　　*　　　*

Hann er nú liðinn; liggur niðrí mold;
skemmtir ei neinum hjer, sem eru eptir.
Vjer geymum samt hans góða, kæra nafn;
það er þó eptir; það mun ekki gleymast. —
Hvað? „Nafn“ — það er einungis eintómt nafn;
hljóð, sem að ekkert þýðir, sem menn setja

á hluti, til að slengja þeim ei saman.
Nafnið er tómt; en það, sem nafni fylgir,
það birtir nafnið; það er nafnsins umgjörð,
þess máttarstoð og eiginlega afl,
sem kveikir ástar-sorg í vorum anda,
og vekur tár á hlýrum harma-fölvum;
maðurinn býr til nafn; en nafn ei manninn.
Hvað þýða nöfnin manna, ef að ei
þeim fylgja verk og framkvæmd, eitt hvað gott?
Þau þýða ekkert. Eins er með þig, Jón;
þú byggðir sjálfur sjálfum þjer til handa
hinn megineflda, trausta minnisvarða,
sem standa mun þó stormar eyði því,
sem grafið er á gull og harða steina;
og það, sem þessum minnisvarða veitir
sitt eiginlega ljós — það er þitt nafn.
Og meira var, þú vissir ekki sjálfur,
og vildir ekki heldur vita það,
hvað sterkt þú byggðir; eins og smiður sá,
sem hlóð á degi hverjum steinum þrem —
seint var það byggt; en seint mun það og falla
því iðnin vinnur stöðugt jafnt sem sterkt.

* * *

Þökk sje þjer, guð, sem gafst oss orð og anda!
sem gafst oss það, að geta dvalið hjá
vinunum, þó þeir kveðji lífsins ljós.

Vjer lifum þá í ljúfri undur-sælu;
og gleðjumst sætt við geislann af því ljósi,
sem aðrir hafa kveikt í vorum anda;
það er það ljós, sem fylgir fagri minning,
og deyr ei sjálft, þó deyi sá, sem kveikti;
en fegurst er það, ef að frægðin dreifir
ljómandi geislalit á logans bjarma.
Þá megnar stormur ei svo sterkt að anda,
að leggi það, nje ljósið deyi út;
það lýsir fleirum þá, en fáum mönnum:
það breiðist út um alla fósturjörð.
Og hvert eitt sinn, sem nafnið þess er nefnt,
þá leiptrar um það gullið geisla-skrúð;
það felur í sjer einfalt líf og iðni;
föðurlands-ást og aldrei unnið þrek;
stöðugleik, hógværð, lítilæti, lærdóm,
fyndni og hug; og hvað viltu svo meir?
og það er bara eitt: Jón Thorstensen.

* * *

Heill sje þjer, nýja leiptur-ljós
ljómandi á háum boga,
sem liggur kringum lífsins ós
þar langar bárur soga.
Stjarna frá Sögu blárri braut
blikar um Íslands jökulskaut,
og tindrar ljósum loga.

Margur á þessa fædist fold,
fer alveg burt með dauða;
aptur hann verður moldar mold
merkir ei geiminn auða.
Þegar er hann er lagður lík,
liðin er burtu æfi slík;
gleymt lífið gæfu og nauða.

Margur fæðist og má ei fá
metorð, sem til hann vinnur;
misskilinn heimi fer hann frá,
fall honum öfund spinnur.
Meðan lifenda lífs hann naut,
lítið og dauflegt hrós hann hlaut.
Þesskonar þjóð ei finnur.

Það er bezt fyrir þann, sem á
þesskonar kjör í heimi,
ef sjer hann hefur sjálfum hjá
sæld, þó ei lof hans streymi.
hann gefur ekki um heimsins hrós;
Hann er sjálfur sitt eigið ljós,
þó heimskir honum gleymi.

Svo þegar loks hann liðinn er,
og lagður nárinn hvíti,
þá byrjar hver að harma sjer,
að burt hann dauðinn slíti.

Þeir sjá fyrst þá; en sáu' ei fyr
en svartar opnast grafar-dyr.
Þá er seint þó menn sýti.

Þá er fyrst minnst á mannorð skært,
og metin dyggðin ljósa.
En hann und blæjum blundar vært
á beði dauðans rósa.
Hann heyrir ei hvað þylur þjóð;
þarf ekki heldur hennar ljóð,
nje hrós, er hún vill kjósa.

En dæmum samt ei heiminn hart,
þó hann sje undarlegur;
hann sjer ei ætíð andans skart,
opt er til sannleiks tregur.
Endanlegt auga ekki má
allt á þeim rjetta tíma sjá;
svo liggur lífsins vegur.

En vjer, sem njótum æfi hjer
og eitthvað hugsað fáum,
vjer minnumst Hans, sem horfinn er;
Hans dæmið þó vjer sjáum.
Blessuð og björt sje minning hans,
búin með ljóma himna ranns,
og frægðar-geislum gljáum.

Nefndur mun hann við norðurskaut,
þar nætur heimar standa,
á meðan sól af segulbraut
sjer ljóma jökulbanda.
Og Sögu himni sælum frá,
sitjandi mörgum frægum hjá
blítt mun hann á oss anda.

*B. Gröndal.*



# Landlæknir Jón Thorstensen.

Hver er hin dapra sveit er sýtir,
sorgarklædd — en úr hjarta mæddu
angurskugga of ásýnd hrygga
og augu svipar, tárum lauguð?
Orðið er heldur skarð fyrir skildi!
skreytir láðs er í helga reitinn
þjóðarfrægur Þorsteins niðji
þungum sporum til grafar borinn.

Þekktu allir öðlings fallins
iðni staka' og geðið spaka;
gott var hjarta, og í gjörðum skarta
gáði jafnan, en skrumi hafna.
Líkams styrk og andans orku
og óði varði til heilla Þjóðar;
var hans ein unz veik af sjónum
vild, að gegna helgri skyldu.

Nú er hann glaður gráts af láði,
genginn þangað, sem mein eru engin,
tók hann dauði svéfns ósjúkan
sneyddan hörmum úr vinar örmum.
Börðust ei líf og bani harður,
en blundur og vaka, á lausnarstundu;
því ljóma kringdur og engla ómi
andinn vaknaði á fegins-landi.

Værð er búin, verkum lúinn
vekur ei morgun til þrauta og sorgar,
líkið hylur leiðið mjúka
liðið ei, það sefur í friði; —
því skærri Krists fyrir dýran dreyra
dags munum roða í austri skoða,
þá morgun fagur og dýrðar-dagur
að dómi hæsta yfir grafir ljómar.

Sá það veit, er hefur heitið
himnagleði þeim, er rjeði
vitja sjúkra, veslum hjúkra,
hvað varstu þeim, hann eigi gleymir
veita laun fyrir vaktar nætur
værðarlausar þjer yfir særðum,
þæga önn og hlynning hæga
á hinnstu stund fyrir bræðrum minnstu.

Bjóðum góða nótt þeim, er náða
naut fyrst grafar í helgu skauti;
grátur vottar, að góður er látinn;
of góðum deyja má aldrei tregi;
ljett er mold yfir helgra holdi,
en harmur þungur í vina barmi;
tárum sæmdur sárum og næmum
sofðu rótt og lofi dróttar.

*St. Thorsteinson.*



# Jón Thorstensen

landlæknir.

---

Dauðinn hefur sveiflað sigð
sinni', og fargað lífi
þess, sem hjer um breiða byggð
bjargaði mörgu vífi.

Mörgum lækning mjúka gaf,
margra heilsu bætti;
við stóra' og smáa allri af
alúð skyldu gætti.

Lifi hróður læknis Jóns
í lofi karls og kvonar;
sjást mun lengi' í sögu Fróns
saknað Þorsteinssonar.

*Þ. Sveinsson.*



# Jón Thorstensen.

Reistu ekki röðull
og rannst til ljóss-sala
síðar úr ægi,
en siður þinn var til?
Leiðstu ekki fljótar
loptsölum í?
Hvarfstu ekki fyr
að faðmi Ránar?

Sannlega sá jeg,
að svo þú gjörðir.
Leizt þjer ekki að líta
lækni *Thorstensen*
sofa og vakna
áður syfja tók,
deyja og fagna
degi kvöldlausum.

Hann var að vinna
meðan varði dagur;
hann var að vitja
veikur sjúkra;
sjálfur í lífsháska
úr lífsháska að bjarga,
sjálfur deyjandi
á samri stund.

Svo var hans æfi
og iðja gjörvöll;
til dauðans augnabliks
dugnað hann sýndi.
Unni hann og vann
ættjörðu vorri
gagn og vegsemd,
sjer í verðlaun hrós.

*þ. St. Blöndal.*



